# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

17. ÁRG. WINNIPEG, JÚLÍ 1902. NR. 5.


## Kirkjuþingið.

Að Garðar í Norðr-Dakota var síðasta kirkjuþing vort haldið. Það er 18. ársþing Hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í Vestrheimi, og stóð það yfir frá því árdegis á laugardag 21. Júní til þess á fimmtudag 26. s. m. að aflíðanda miðdegi. Tvö kirkjuþing höfðu áðr verið haldin í Garðar-söfnuði, hið fyrra 1886, hið síðara 1892.

Áðr en þingið var sett fór að vanda fram opinber guðsþjónusta; prédikaði séra N. Steingrímr Þorláksson við það tækifœri og hafði fyrir texta þessi orð frelsarans allra seinast í Matteusar guðspjalli: ,,Og sjá, eg er með yðr alla daga, allt til veraldarinnar enda.'' Altarisgöngu þingmanna var frestað til næsta dags (sunnud. 4. e. trín.), einkum fyrir þá sök, að svo margir væntanlegir þingmenn voru ókomnir í þingbyrjan, gátu ekki komið fyrr en á laugardagskvöld.

Tala þingmanna, eftir að allir voru komnir, var í þetta skifti 47, og hafa aldrei áðr eins margir setið á kirkjuþingi Vestr-Íslendinga. Ekki voru þó prestarnir þar nema 6. Einn þeirra, séra Hans B. Thorgrímsen, var ekki formlega inn genginn í kirkjufélagið, en hefir síðan knýtt sig við oss fullkomnu félagsbandi. Guðfrœðiskandídat Pétr Hjálmsson, sem fyrir nokkrum árum er útskrifaðr frá prestaskólanum í Reykjavík og síðastliðinn vetr hefir gengið á hinn lúterska presta-

skóla í Chicago, sat og á kirkjuþingi þessu með fullum þingmannsréttindum. Síðan hann í vor kom þaðan hefir hann starfað að kristindómsmálum í Nýja Íslandi sem aðstoðarmaðr séra Rúnólfs Marteinssonar. Var hálfvegis við því búizt, að hann yrði prestvígðr á kirkjuþingi þessu, en samkvæmt ósk sjálfs hans var þeirri prestvígslu frestað. Engu að síðr tók hann eftir tilmælum kirkjuþingsins það að sér að gjörast missíóneri félags vors fyrst um sinn, og fór í því skyni til safnaðanna í Þingvallanýlendu í Assiniboia mjög skömmu eftir kirkjuþing. — Séra Oddr V. Gíslason treysti sér ekki heilsu sinnar vegna að sœkja þing í þetta sinn, en sendi þinginu bróðurkveðju. Séra Jón J. Clemens kom ekki heldr. Því miðr hefir hann ekki séð sér fœrt að starfa neitt fyrir íslenzka kirkjufélagið síðan í Desember næstliðinn vetr. Eftir það gekk hann á prestaskólann í Chicago og tók þar fullnaðarpróf í guðfrœði og hefir síðan starfað í ensk-lúterskum söfnuði eða söfnuðum í Minnesota. En nú var á þessu kirkjuþingi samþykkt að senda honum missíónarprests-köllun í nafni félags vors.

Við þá 32 söfnuði, sem áðr tilheyrðu kirkjufélaginu, bœttust nú tveir: Árdalssöfnuðr í Nýja Íslandi og Konkordíasöfnuðr í Assiniboia. Frá einum nýlega mynduðum söfnuði (Fagradalssöfnuði), sem búizt var við að nú gengi í kirkjufélagið, kom ekki inngöngubeiðni.

Á dagskrá kirkjuþings þessa voru sextán mál. Hin helztu þeirra voru þessi: prestafæðin, missíónarmál og skólamálið. Sérstök nefnd var í hverju þeirra um sig sett á þinginu, og eins í sumum hinna smærri mála. Prestafæðarmálið og missíónarmálið eru náskyld. Á ráðning hr. Pétrs Hjálmssonar sem missíónera og köllunina til séra Jóns J. Clemens hefir þegar verið minnzt. En svo var og forseta kirkjufélagsins veitt umboð til, ef honum sýndist það fœrt í fjárhagslegu tilliti, að senda hr. Sigrbirni Ástvaldi Gíslasyni, sem unnið hefir að kristilegu trúboði í Reykjavík síðan í haust, eða einhverjum öðrum ungum efnilegum guðfrœðingi á Íslandi, köllun í kirkjufélagsins nafni.

Skólamál kirkjufélagsins kom vel undirbúið inn á þing

frá nefnd þeirri, er það hefir haft með höndum á síðastliðnu ári. Hún gat með rökum sýnt, að stofnan hins íslenzka kennara-embættis í sambandi við Wesley College í Winnipeg hefir í alla staði vel heppnazt, og réð hún því eindregið til þess, að því embætti yrði haldið áfram á sama hátt fyrst um sinn. Þó leit fyrst út fyrir, að þingmenn myndi fyrir fullt og allt ætla að skiftast í tvennt út af því máli og að landamerkjalínan á milli Bandaríkjanna og Canada myndi ráða þeirri flokkaskifting. En eftir að ný nefnd, sem sett var á þinginu og í voru fimm ,,sunnanmenn" og fjórir ,,norðanmenn", hafði haft málið til meðferðar, dró til sameiningar um þetta mikla framtíðarmál Vestr-Íslendinga. Sú nefnd var einhuga um það að styðja tillögur hinnar fyrrverandi skólanefndar, þó með þeirri viðbót, að stofna mætti í kirkjufélagsins nafni annað íslenzkt kennara-embætti í sambandi við einhvern œðri skóla lúterskan í Bandaríkjunum svo fljótt sem ástœður leyfði. En er að því kemr, að kirkjufélag vort sér sér fœrt að koma á fót sjálfstœðri skólastofnan, þá skyldi bæði þessi íslenzku kennara-embætti lögð niðr. Slegið var og varnagla við því í tillögum þingnefndarinnar, að ekki mætti skerða skólasjóðinn, sem nú er. Að eins rentum af þeim höfuðstól mætti verja til þess að standast kostnaðinn, sem þau embætti hafa í för með sér. Það fé, sem svo á vantaði, yrði að hafa upp með samskotum. Allt þetta varð að fullnaðarsamþykkt á þinginu nálega mótstöðulaust. En á þessu ári verðr víst eingöngu um kennara-embættið við Wesley College að rœða, og bjuggust þingmenn allir við því eins og sjálfsögðu, að séra Friðrik J. Bergmann myndi framvegis hafa það á hendi.

Í skólanefndina fyrir þetta ár voru kosnir þessir menn: Sigtryggr Jónasson, Friðjón Friðriksson, Magnús Paulson, Tómas H. Johnson, dr. Brandr J. Brandsson, séra N. Steingrímr Þorláksson, og Elís Þorvaldsson.

Fyrirlestrar tveir voru fluttir á þinginu: hinn fyrri (,,Að Helgafelli") af ritstjóra ,,Sam.", hinn síðari (,,Straumar") af séra Birni B. Jónssyni. —Trúmálaumrœður ,,um kirkjuna" hóf séra N. Steingrímr Þorláksson. Skifti hann efninu í

þrennt: 1, hinn guðlegi uppruni kirkjunnar, 2, meðlimir hennar, 3, starf hennar, og var umrœðunum hagað eftir þeirri niðrröðun.

Við guðsþjónustuna í Garðar-kirkju á sunnudaginn næsta eftir að þingið var sett prédikaði kandídat Pétr Hjálmsson, og var sumt af safnaðarfólki þar þá til altaris ásamt með kirkjuþingsmönnum. Síðara hluta þess dags var kirkja Fjallasafnaðar vígð af forseta með aðstoð hinna prestanna. Séra N. Steingrímr Þorláksson prédikaði þá út af dœmisögunni um sáðmanninn, og var fólk þá einnig tekið til altaris. Sú kirkja var þegar reist árið 1894, en vígslu hennar hefir verið frestað þar til hún nú hafði fengið vandað altari og önnur ný áhöld. Fjallasöfnuðr er 15 ára gamall og hefir ávallt, þótt fámennr sé, tekið heiðarlegan þátt í baráttu kirkjufélagsins.

Á föstudag 27. Júní eftir að sjálfu kirkjuþinginu var slitið voru tvö aukaþing háð í Garðarkirkju, sunnudagsskólaþing árdegis og bandalagsþing síðdegis. Séra Björn B. Jónsson og séra Rúnólfr Marteinsson voru þar forsetar. Á sunnudagsskólaþinginu komu þeir Ó. G. Anderson og Jóhannes S. Björnsson með ritgjörðir, og rœður fyrirfram ákveðnar héldu séra Jón Bjarnason, séra Hans B. Thorgrímsen og séra N. Steingrímr Þorláksson. Á bandalagsþinginu kom ungfrú Ingiríðr Johnson með ritgjörð, og þeir séra Friðrik J. Bergmann og séra Björn B. Jónsson voru þar á prógrammi sem rœðumenn. Ýmsir fleiri töluðu á hvorutveggja þinginu. Og á hinu síðara skemmtu þau séra Hans B. Thorgrímsen og dœtr hans tvær með söng og hljóðfœraslætti. Aukaþing þessi heppnuðust í rauninni vel, en tíminn, einkum fyrir hið fyrra, reyndist þó of takmarkaðr. Og var nú óskað eftir því, að framvegis væri slíkir fundir eins og áðr haldnir meðan kirkjuþingið sjálft stendr yfir.

Að áliðnum fimmtudeginum eftir að kirkjuþingi var slitið bauð Víkrsöfnuðr þingmönnum öllum til höfðinglegrar veizlu, sem haldin var í skógarrjóðri einu út frá bœnum að Mountain. Var þar mikið um rœðuhöld, sem séra Friðrik J. Bergmann stýrði, og skemmtu menn sér einkar vel.

Viðgjörðirnar við þingmenn og alla gesti, sem kirkjuþing-

ið sóttu, frá hálfu Garðar-safnaðar, voru frábærar. Í skólahúsinu á Garðar spölkorn frá kirkjunni var þeim sameiginlega búið ríkulegt borðhald allan þingtímann út, og í hinu stóra félagshúsi þar til annarrar handar var öllum þorra þeirra búin hin ágætasta nætrvist. Eitt sinn var og þingmönnum öllum boðið heim á prestssetrið til séra Friðriks, og leið mönnum þar hið bezta undir linditrjánum umhverfis húsið.—Sunnudaginn eftir þingið (29. Júní) prédikuðu prestarnir sinn í hverri kirkju: á Garðar, Eyford, Mountain, Hallson, Pétrssafnaðar og Vídalínssafnaðar, og sama kvöld voru þeir og ýmsir fleiri gestir í samsæti hjá séra Hans B. Thorgrímsen í hinu nýstœkkaða og prýðilega Akra-prestssetri, og nutu þar hins mesta fagnaðar að skilnaði.




**Björn Jónsson** (frá Ási í Kelduhverfi) andaðist aðfaranótt miðvikndagsins 18. Júní á heimili Valgerðar dóttur sinnar og Tryggva Friðrikssonar manns hennar nálægt pósthúsinu að Brú í Argyle-byggð í Manitoba. Hann var þá alveg nýkominn þangað heim úr Íslandsferð, hafði dvalið á Íslandi nærri því árlangt, lengst af á fornum æfistöðvum sínum hjá gömlum og nýjum vinum í Þingeyjarsýslu. Alheilbrigðr kom hann úr langferðinni til Winnipeg, og svo vel leit hann þá út, að virðast mátti, að hann hefði til muna yngzt á burtverutíðinni. Hann hafði lengi langað til að sjá hina kæru ættjörð sína, Ísland, aftr, enda var auðheyrt og auðséð á honum, er hann kom nú aftr hingað vestr, að hann hafði notið hinnar mestu ánœgju af ferðinni þangað og dvölinni þar. Heilsa hans hafði um nokkur ár verið all-ósterk. Meðfram þess vegna var talsverðr kvíði í huga margra vina hans hér, þá er hann í fyrra lagði á stað í þessa ferð til Íslands, að þeir myndi aldrei aftr sjá hann þessa heims á lífi. Því fegnari urðum vér, er hann eftir útivistina heilsaði upp á oss alheill og svo hjartanlega lífsglaðr. En kvöldið áðr en hann hélt á stað héðan úr

bœnum heimleiðis til konu sinnar og annarra nánustu ástvina í Argyle sýktist hann snögglega, komst svo með veikum burðum þangað, lagðist tafarlaust í rúmið þungt haldinn og lézt eftir hálfan fimmta sólarhring, 62 ára gamall (fæddr 2. Okt. 1839).

Tuttugu og sex ár eru liðin síðan Björn heitinn kom frá Íslandi hingað vestr ásamt konu sinni (Þorbjörgu Björnsdóttur) og börnum. Eitt af börnum þeirra er þó síðar fœtt. Hann settist að á Gimli í Nýja Íslandi, og bjó þar á 5. ár, nam land í Argyle 1881, flutti sig þangað þó ekki fyrir fullt og allt (frá Winnipeg) fyrr en ári síðar. Og þar hefir heimili hans síðan verið. Frá fyrst til síðast átti hann mjög mikinn og góðan þátt í framsóknarbaráttu Vestr-Íslendinga. Þótt hann bláfátœkr væri, þá er hann kom fyrst til þessa lands, og hefði mjög lítillar menntunar notið, var hann þó eins og fyrirfram ákveðinn til að vera leiðtogi og höfðingi. Honum var 1877 fengið byggðarstjóra-embætti í Víðinesbyggð í Nýja Íslandi, og löngu eftir að hann hafði sleppt því embætti var hann almennt kallaðr „byggðarstjóri". Hann var tígulegr maðr, hár vexti, svipmikill, góðmannlegr, með örum tilfinningum og frábærlega hvössum skilningi og dómgreind, og með brennanda áhuga fyrir velferðarmálum almennings, allra manna skemmtilegastr í viðrœðu. Allir þessir eiginlegleikar gjörðu hann að sjálfsögðum „byggðarstjóra", leiðtoga, höfðingja, hvar sem hann átti heima. Sterkr flokksmaðr var hann ávallt, en jafnan skipaði hann sér þar í flokk er bezt gegndi, og sökum vitsmuna sinna og sanngirni gætti hann æfinlega hófs í flokksbaráttunni. Kirkju vora studdi hann af öllum mætti, og eins og skynsemi hans fór sívaxandi allt til dauðadags, svo varð hann og með ári hverju æ betr og betr kristinn maðr. Lengi börðust Argyle-búar fyrir kristindómsmálum sínum án þess að hafa nokkurn prest hjá sér, og börðust vel og heiðarlega. Meðal leikmanna héldu þeir Jón Ólafsson (að Brú), Friðrik heitinn Jónsson og Björn Jónsson þá boðskap kristindómsins þar á lofti. Björn heitinn sat á mörgum kirkjuþingum með oss, og var þar ávallt til prýði og nytsemdar. Eg hefi lengi um hann hugsað með lotning og ást eins og sannkallaðan „patríarka" í leikmanna-

hópi Vestr-Íslendinga. Guð blessi minning hans í Jesú nafni.

Hann var greftraðr í grafreit Fríkirkjusafnaðar föstudaginn 20. Júní, daginn áðr en kirkjuþingið á Garðar byrjaði. Þess vegna gátu erindsrekarnir frá Argyle-söfnuðum ekki komið til þings fyrr en að kvöldi þingsetningardagsins. Eftir að kirkjuþingi var lokið, miðvikudag 2. þ. mán., var sorgarhátíðar-samkvæmi haldið í kirkju Argyle-safnaða til þess að heiðra minning hins látna göfugmennis, og er það einsdœmi í sögu Vestr-Íslendinga. Sú hátíð kom í staðinn fyrir fagnaðarsamkomu, sem fyrirhuguð hafði verið af Argyle-búum til þess að heilsa Birni heitnum, er hann kœmi heim úr Íslandsferðinni. Hr. Skafti Arason stýrði minningarsamkomu þessari, sem byrjuð var með sálmasöng og bœn. Hr. Sigrbjörn Jóhannsson flutti tvö kvæði. En rœður héldu auk forseta Friðjón Friðriksson, Kristján Jónsson, Árni Sveinsson, Runólfr Fjeldsteð, Sigurðr Kristófersson, Björn Sigvaldason, séra Björn B. Jónsson (sonr hins látna) og eg.

JÓN BJARNASON.

## Engin gild mótmæli.

Ný saga eftir IAN MCLAREN (dr. Watson).

Að prestskosning undan tekinni var ekkert, sem vakti slíka hugarhrœring hjá fólki í Thorngreen-kirkjusókn eins og kosning safnaðarfulltrúa. Og með sanni má segja, að mönnum þótti miklu meira máli skifta, hverja þeir kvöddu til þess helga embættis, heldr en það, hver þaðan væri sendr á löggjafarþing ríkisins. Menn höfðu líka næma tilfinning fyrir því, hverskonar maðr sá þyrfti að vera, sem safnaðarfulltrúaembættinu væri vaxinn. Og margr var sá bóndi, sem þeir með gleði myndi hafa kvatt í hverja nefnd sem vera skyldi, einnig trúað honum fyrir ótakmarkaðri upphæð peninga, án þess þeir nokkurn tíma léti sér detta í hug að gjöra þann hinn sama mann að safnaðarfulltrúa. Sumir voru þeir, er lítt hirtu um að vanda eigið líf sitt, og hefði því mátt ætla, að þeir skifti sér ekki mikið af því, hvern mann sá eða sá þjónn

kirkjunnar hafði að geyma. Og þó höfðu þeir fastákveðna hugmynd, og hana í alla staði gilda og góða, um það, hvernig sá maðr þyrfti að vera, sem hœfr væri fyrir safnaðarfulltrúa-embættið; og ef á einhvern þeirra hefði verið bent til þeirrar stöðu, myndi þeir hafa litið svo á, sem það væri gjört ekki þeim, heldr kirkjunni til háðungar. ,,Eg safnaðarfulltrúi!"—myndi slíkr maðr hafa sagt—,,Í öllum bœnum láti enginn slíkt heyrast. Þegar um annað eins mál er að rœða, þá má ekki fara með spaug. Ef eg eða mínir líkar kœmist í slíkt embætti, þá væri betra að loka kirkjunni fyrir fullt og allt." Því orðið safnaðarfulltrúi táknaði í Thorngreen, og reyndar hverri annarri rétthugsandi kirkjusókn, ekki að eins siðvandan og grandvaran mann, heldr og alvörugefinn og andlega sinnaðan mann.

Eigi var við því að búast, að í neinni kirkjusókn væri margir slíkir menn til, og í Thorngreen var sí og æ yfir því kvartað, að maðr einn þar, sem augsýnilega var af guði sjálfum kjörinn til safnaðarfulltrúa, fékkst ekki til að taka við því embætti. Andrés Harris, eða Rochally eins og hann var vanalega kallaðr, eftir bœnum, sem hann bjó á, var af gamalli ætt í þeirri sveit, því forfeðr hans í marga liði höfðu búið þar, og sjálfr hafði hann tekið við búi eftir föður sinn, sem í þrjá áratugi hafði verið í safnaðarfulltrúa-stöðu. Enginn myndarlegri bóndi var til en Rochally, og öllum var um það kunnugt, hve mikið hann hafði unnið að jarðabótum með því að ræsa landið, veita því góðan áburð og velja því heppilegar sáðtegundir. Enginn var hreinni og beinni í viðskiftum en hann, —því ef einhver t.a.m. keypti ungan hest af Rochally, þá þótti það, sem hann hafði um þann hest sagt, betri trygging fyrir því að hestrinn væri ósvikinn en skriflegt skjal. Þegar fólk hittist við kirkju á sunnudögum eða í kaupstaðnum, Muirtown, þá var þar enginn alúðlegri maðr til en hann, og enginn sótti kirkju sína með reglubundnari samvizkusemi en hann, né veitti prédikaninni betri eftirtekt. Auk þess vissu allir þar í sókninni, þótt aldrei væri um það talað, að Rochally var maðr guðrœkinn. Hann hélt og stöðugt uppi húslestrum heima hjá sér og baðst þá fyrir með öllu vinnu-

fólki sínu; og þó var mest um það vert, að öll hans breytni árið út og árið inn var kristileg guðsþjónusta. Hann var og maðr mjög vel efnum búinn, og ef það gat fengizt með öðru góðu, þá þótti sóknarfólki það kostr hjá þeim manni, er kvaddr var í safnaðarfulltrúa-stöðu. Hann gaf og örlátlega til Fríkirkjunnar og var í sannleika máttarstoð hennar. Ókvæntr var hann reyndar, og ólíklegt, að hann myndi nokkurn tíma kvænast. En við því varð ekki gjört. Að því slepptu hafði hann allt það til að bera, sem gjöra myndi hann að fyrirmynd í safnaðarfulltrúa-stöðu. Aldrei brást það heldr, þegar haldnir voru fundir til þess að kjósa safnaðarfulltrúa—en það var fimmta hvert ár—, að borin væri fram tillaga, og hún óðar studd, um það að Andrés Harris, búandi að Rochally, væri hafðr í vali. En jafnskjótt stóð Rochally æfinlega upp og mæltist til þess kyrrlátlega, en afdráttarlaust, að nafn hans væri látið niðr falla; ,,og hefi eg'' — sagði hann —,,til þessa ástœður, sem eru gildar og góðar fyrir samvizku mína.'' Og þótt þrír prestar, sem tóku við hver af öðrum, og tvær kynslóðir safnaðarfulltrúa hefði í einrúmi lagt að Rochally og beitt öllum hugsanlegum rökum til þess að hvetja hann til að taka útnefning, þá dugðu þær bœnir allsendis ekkert. Hann sat fast við sinn keip. Í hvert skifti var opinberlega á hann bent. Það þótti sjálfsagt að sýna honum þá virðing. Og líka var það gjört til þess að það sæist, að söfnuðrinn hafði vit á andlegum málum. En fyrir löngu vissu allir, að hann myndi aldrei gefa kost á sér í það embætti. Hefði þeir ráðfœrt sig við hann, myndi þeir aldrei hafa nefnt hann á nafn í því sambandi. En hvað sem gilti lét hann sig aldrei vanta á slíkum fundum, ef hann átti þess nokkurn kost að koma, en hvarf svo hið bráðasta burt þaðan. Þeir voru þrálátir og hann eigi síðr. Og þetta var orðið að ófrávíkjanlegri venju þá er safnaðarfulltrúa-kosning fór fram í Fríkirkjunni.

Enginn gat rennt í það neinn grun, hvernig á því stóð, að Rochally skoraðist undan því að láta kjósa sig fyrir safnaðarfulltrúa, og öllum í Fríkirkjunni sárnaði það til muna, að bezti maðr sóknarinnar og sá, er mest lotning var borin fyrir, skyldi sunnudag eftir sunnudag sitja utarlega í kirkjunni,

koma á bœnafund á virkum degi í hverri viku, leggja meira fé en allir aðrir til safnaðarþarfa, öllum fremr vera hafðr í heiðri af fólki utan safnaðar, og þó ekki vera í safnaðarfulltrúa-stöðu. Hins vegar þóttust menn vita, að tœkist þeim að eins að koma nafni hans á prentaða skrá fyrirhugaðra embættismanna-efna og á þann hátt leggja það fram fyrir kjósendr í sókninni, og væri hann svo kjörinn í einu hljóði, þá myndi honum veitast ervitt að skorast undan. Og ef hann engu að síðr gjörði það, þá hlyti hann að tilgreina ástœður, sem hann aldrei áðr hafði gjört. Gæti þeir að eins haldið kjörfund að honum fjarveranda, eða tœkist þeim með einhverju meinlausu bragði að halda honum burtu frá fundinum, þá myndi þeir vinna sigr meir en til hálfs. Og svona var það, að presti og safnaðarráði Fríkirkjunnar í Thorngreen heppnaðist að koma að Rochally óvörum. Þeir höfðu nokkurn tíma verið að hugsa um að bœta við nýjum safnaðarfulltrúum, því Essendy, sem elztr var allra í ráðinu, hafði verið kallaðr burt áttatíu og sjö ára gamall, og Wester Mains gat að eins á hlýjum sólskinsdögum setið í garðinum. Og meðan þeir voru að velta málinu fyrir sér í huga sínum—því að engu var hrapað þar í Thorngreen—barst sá orðrómr út, að Rochally væri í þann veginn að fara að heiman og ætlaði að vera burtu ekki skemr en fjórar vikur — slíkt hafði aldrei áðr komið fyrir — að einu leyti til þess að heimsœkja systurson sinn einn, sem komizt hafði í háa virðingarstöðu á Englandi, og í annan stað til þess að taka böð sér til lækningar við gigt, sem var eini heilsulasleikinn, er hann hafði haft af að segja. Það var eins og forsjónin væri hér í verki með, og var þess þá að eins að gæta, að tœkifœrið væri á vitrlegan hátt notað. Og hefði vel verið gætt að alvörusvip þeim, er nú var á andlitum fólks í Thorngreen, þá myndi Rochally hafa verið auðgefið að geta sér til, að einhver samtök gegn honum voru í undirbúningi, þegar hann einn sunnudag kvaddi brœðrna eftir að guðsþjónustu var lokið í kirkju safnaðarins.

Undir eins og það var kunnugt, að hann var nýlagðr á stað í ferð sína, en hins vegar það orðið víst, að honum gat engin frétt komið heiman að, að undan tekinni afar fáorðri

skýrslu einu sinni í viku frá formanninum, var safnaðarfulltrúa-ráðið kallað saman, og tvo sunnudaga hvorn eftir annan var auglýsing lesin upp um allsherjarfund, er haldinn skyldi í kirkjunni til þess að útnefna safnaðarfulltrúa. Fundrinn var haldinn á mánudag næsta eftir síðara sunnudaginn, og sótti hann nálega allt sóknarfólkið. Sex menn voru til nefndir, er kosið skyldi um til hinna lausu embætta; en þó var að sjálfsögðu útnefning Andrésar Harris, búanda að Rochally, og það að nafn hans var sett á skrá embættismanna-efnanna sá atburðr, sem lang-mestu máli þótti skifta. Útnefningarseðlunum var útbýtt næsta sunnudag, og fjórða sunnudaginn eftir að Rochally hafði farið að heiman, og þann næsta áðr en hann var aftr væntanlegr heim, skiluðu menn seðlunum aftr í hendr safnaðarráðsins. Áðr en hann var kominn heim hafði safnaðarráðið haldið sinn fund, og með því að hver einasti atkvæðisbær maðr í sókninni hafði kosið Andrés Harris, bónda að Rochally, lýsti safnaðarráðið yfir því, að hann hefði hlotið kosning. Og er hann næsta sunnudag sat í sæti sínu í kirkjunni, heyrði hann, að boð var látið út ganga um það, að annan sunnudag þar frá skyldi þrír nýir safnaðarfulltrúar settir í embætti, og var nafn hans þar fyrst í röð.

Tilfinning sóknarmanna fyrir því, hvað við átti, sýndi sig í því, að enda þótt allir stœði á öndinni, þegar hin merkilega auglýsing var borin fram, þá leit þó enginn út undan sér þangað í kirkjunni, er Rochally sat aleinn í sæti sínu. En úr prédikunarstólnum varð prestinum á hann litið, og tók hann eftir því, að hann hrökk fyrst við og roðnaði; síðan sá hann, að hann varð fölr í andliti og svipr hans sorgblandinn. Tók prestr þá að verða áhyggjufullr og iðrast eftir samtök þeirra, þótt að eins hefði þar ráðið hinar beztu hvatir. Samkvæmt venjunni í þeirri kirkju kunngjörði prestr, að áðr nefndir menn yrði vígðir til safnaðarfulltrúa-embættisins fjórtán dögum síðar—,,nema því að eins að gild mótbára kœmi fram út af lífi þeirra eða trú á almennum fundi í kirkjunni, er haldinn skyldi í því skyni næsta miðvikudagskvöld á undan vanalegri bœnahalds-guðsþjónustu.'' Tók hann þá eftir því álengdar, að Rochally greip í hurð stólsins, sem hann sat í,

harðara handtaki en áðr, og að höfuð hans hné ofan á bringuna allra snöggvast eins og hann væri í angist. Lá presti út af þeirri sjón við að óska, að hann hefði ekki snortið neitt við persónulegum ástœðum manns þessa. Ekki furðaði prestr sig neitt á því, að Rochally lét vera, þótt hann ætti þess kost, að heimsœkja hann á mánudag eða þriðjudag til þess að láta hann vita, að hann skoraðist undan kosning. Og þótt hann hryggðist af því, er hann sá Rochally standa í skugga trjánna skammt frá skrúðhúsi kirkjunnar, þar sem fundrinn var haldinn, þá furðaði hann sig þó ekki heldr á því. Þótt ekki hefði hann minnstu hugmynd um orsökina, þá kveið hann þó nú fyrir því, sem var í vændum. Og þegar safnaðarfulltrúarnir komu inn, einn og einn, eftir að þeir höfðu gengið fram hjá Rochally, þar sem hann stóð út af fyrir sig á milli trjánna án þess að nokkur merki þess sæist, að hann tœki eftir þeim, þá urðu þeir órólegir og höfðu hugboð um það, að einhver óhamingja væri á ferðinni. Ekkert vissu þeir fremr en prestrinn og ekkert gátu þeir ímyndað sér, en eftir að hafa komið auga á Rochally og allra snöggvast gætt að andlitssvip hans, vildu þeir fegnir, að þeir hefði mátt brenna útnefningarseðlana og gjöra kosninguna að engu.

Fundrinn var byrjaðr með bœn, og bað prestrinn við þá bœnagjörð heitt og hjartanlega um það, að þeir mætti allir verða leiddir af anda guðs og fengi skynjað vilja hans. Síðan var lesinn upp síðasti fundargjörningr, þar sem nöfn hinna kjörnu manna voru til greind. Lýsti svo prestrinn yfir því, að ef einhver hefði mótbárur út af lífi og trú embættismannaefnanna, þá væri nú tími til að koma fram með þær. Sérstakr þjónn, sem sat í sæti sínu frammi í dimmri kirkjunni, var til þess kvaddr að flytja almenningi þennan boðskap. Eftir að þjónninn hafði opnað þær dyr skrúðhússins, sem gengu inn í kirkjuna, leit hann þangað inn í dimmuna og skoraði á hvern þann, sem vita kynni eitthvað út á líf eða trú Andrésar Harris, bónda að Rochally, að setja, sem gjörði hann óhœfan til þess að verða vígðr til safnaðarfulltrúa, að koma nú opinberlega fram með þær sakargiftir. Marg-oft hafði þjónninn borið fram svona lagaða áskoran áðr án þess nokkur segði

neitt. En í þetta sinn kom Rochally sjálfr utan úr dimmunni og gekk inn í skrúðhúsið. Fyrst í stað var eins og hann fengi ofbirtu í augun af lampaljósinu, þótt ávallt væri það fremr dauft, og í því hann staðnæmdist frammi fyrir safnaðarráðinu bar hann höndina fyrir andlitið. Svo gekk hann hægt fram að borðinu, studdi sig fast við það með annarri hendinni og tók að opinbera leyndarmál sitt á þessa leið:

,,Heiðruðu fundarstjórar og öldungar kirkjunnar! Eg er hingað kominn samkvæmt áskoran yðar og boði minnar eigin samvizku til þess að bera fram sterkar ástœður fyrir því, hvers vegna ekki megi nokkurn tíma vígja Andrés Harris til safnaðarfulltrúa í kirkju Krists og hvers vegna hann er jafnvel óhœfr til þess að vera til altaris.''

,,Vel veit eg það, að brœðr mínir hafa oft furðað sig á því, að eg hefi ekki viljað, að á mig væri bent sem safnaðarfulltrúa; og oft hefi eg verið hræddr um, að þeir kynni að leiða af því þá ályktan, að eg fyrirliti köllun kirkjunnar og vildi ekki leggja hönd á plóginn. Hafi þeir gjört það, þá hefir þeim skjátlazt; því guð veit, að eg hefi haft kirkjuna í heiðri og elskað hana, og hann veit, hve ljúft mér hefði verið það og hve mikið mér myndi hafa þótt í það varið, ef eg hefði mátt bera ker drottins. En eg þorði það ekki, — eg þorði það ekki.''

,,Eg hefði víst gjört réttara í því að skýra mönnum frá ástœðunni fyrir mörgum árum. Það hefði getað sparað mér og brœðrunum mörg óþægindi. En skozkt hjarta á ervitt með að láta það opinbert, er þar er inni geymt. Og vér mennirnir viljum einir búa að leyndarmálum vorum. Má vera, að eg hafi drýgt synd með því að játa ekki brot mitt frammi fyrir söfnuðinum á þessum stað eins og eg hefi gjört annarsstaðar frammi fyrir mönnum og guði mínum. Sé svo, þá hefi eg liðið fyrir það, og nú leggst hönd drottins þungt á mig.''

,,Endr fyrir löngu''— hinn sterki maðr skalf, en enginn af öldungunum bærði á sér né lyfti upp augum sínum — ,,dvaldi eg, þótt enginn hér minnist þess nú, um eins árs tíma í annarri sókn, þar sem faðir minn átti jörð eina, og þótt enginn hér viti af því, féll eg þar á ungum aldri í and-

varaleysi til orða og verka, veitti náð guðs mótstöðu og syndgaði gegn lögmáli Mósesar og Krists.“

„Það skiftir engu nú, í hverju sú synd var fólgin, en það var stórsynd, og að eins í blóði Krists getr slík synd orðið af þvegin, og sektarþungi þeirrar syndar lá þungt á mér. Guð var mér náðugr og andi hans vakti þá iðran í sál minni, sem aldrei þarf eftir að sjá. Að því leyti, sem í mínu valdi stóð, bœtti eg fyrir brot mitt, og þá menn, sem fyrir ranglætinu urðu, gjörði eg ánœgða; en eg hefi aldrei gjört mig ánœgðan með það. Þeir eru nú allir dánir, sem þar áttu hlut að máli. Löngu áðr en þeir dóu höfðu þeir gleymt því, sem eg hafði við þá misgjört; en eg hefi aldrei gleymt því, og árin öll, sem liðin eru, hafa aldrei getað afmáð það úr minni mínu.“

„Einn mann öfunda eg daglega, og aldrei þó eins mikið og nú í kvöld. Ekki þann mann, sem er auðugr og voldugr. Nei, ekki hann. Heldr þann mann, sem lifað hefir hreinu og óflekkuðu lífi frá barnœsku allt fram á þennan dag, sem getr flett blöðum sínum og lofað hverjum sem vill að lesa allt, sem á þeim er. Einn kapítula í æfisögu minni les eg aleinn á hverjum degi, og hann getr ekki orðið af máðr í augum mínum. Hendr þeirra verða að vera hreinar, sem bera ker drottins, en mínar hendr eru ekki hreinar, og þess vegna hlýt eg, sem er áreiðanlegr vottr, að koma með mótmæli gegn því, hvernig Andrés Harris hefir lifað, og lýsa yfir því, að hann er ekki til þess hœfr að vera fulltrúi Krists safnaðar.“

Rochally stóð enn kyrr eftir að hann hafði talað þetta, en prestrinn kraup á kné ásamt safnaðarfulltrúunum og bað til guðs. Fyrst af öllu játaði hann í þeirri bœn syndir œsku þeirra og syndir síðari ára þangað til sál hvers einasta manns lá eins og opin bók frammi fyrir hans eigin augum og augum guðs. Því næst bar hann þá alla, líf þeirra og syndir þeirra, að krossinum á Golgata og miklaði frammi fyrir guði fórn þá, er þar var fram borin fyrir syndina, og kærleik frelsarans deyjanda. Svo lyfti hann sálum þeirra biðjandi upp að hásæti guðs og sárbœndi hann, sem er dómari allra, Krists vegna að taka yfirsjónir þeirra burt frá augliti sínu og varpa þeim í hafsins djúp. Og loks bað hann guð af hrœrðu hjarta að

veita þeim öllum fullvissu trúarinnar á miskunnsemi hans og frið þann, sem æðri er öllum skilningi, svo að hjörtu þeirra mætti af þeirri fullvissu gagntekin verða í Jesú Kristi. En á Rochally og synd hans minntist hann ekki með einu orði, svo að virðast mátti, að prestrinn væri sá, sem þar stóð sekr fyrir dómi, og með honum öldungar safnaðarins, en ekki Andrés Harris.

Þegar hann reis upp frá bœn sinni, voru sumir af safnaðarfulltrúunum grátandi, og allir voru þeir fölir og með alvörusvip. Og enn stóð Rochally í sömu sporum, eins og hann vildi mega fara burt, en gæti það ekki fyrr en prestrinn hefði kveðið upp úrskurð sinn. Andi hins heilaga embættis, sem er alvarlegra og háleitara en nokkurt annað embætti á jörðinni, kom í sérstökum mæli yfir prestinn, sem var maðr ungr að aldri og með lítilli lífsreynslu, en kom nú fram úr helgidómi guðs hins hæsta.

,,Andrés Harris! Eg spyr þig í nafni kirkjunnar, sem drottinn elskaði og þvoði hreina af syndum hennar með sínu eigin blóði: Elskar þú drottin, Jesúm Krist?''

Þá var eins og prestrinn og öldungarnir hyrfi úr augsýn Rochally's, og hinn drenglundaði maðr, sem fallið hafði í synd endr fyrir löngu og grátið svo sárt, stóð augliti til auglitis með drottni.

,,Herra!''—sagði hann og lyfti nú loks upp höfði sínu— ,,þú veizt allt; þú veizt, að eg elska þig.''

Það var komið miðnætti, þegar prestrinn bókaði fundargjörninginn, og þar er þess getið, að ,,mótmæli komu fram gegn lífi Andrésar Harris, en safnaðarráðið lagði þann úrskurð á, að þau væri ógild, og lét sá, er mótmælin bar fram, sér það lynda, og ákvað ráðið því, að Andrés Harris, bóndi að Rochally, skyldi vígðr til safnaðarfulltrúa í Fríkirkju Thorngreensóknar þann dag, er áðr var til tekinn.''

## Lúter deyjandi.

Lúter andaðist svo sem alkunnugt er í Eisleben á Þýzkalandi, fœðingarstað sínum, árið 1546—aðfaranótt 18. dags Febrúarmánaðar. Og var hann þá á 63. aldrsári. Hafði hann ferðazt þangað frá Wittenberg til þess að sætta Mansfeld-greifana og var búinn að dvelja þar einar þrjár vikur, þá

er andlát hans bar að hendi. En þótt hann væri mjög lasinn allan þann tíma, einkum síðustu dagana, klæddist hann þó þá daga alla. Og kvöldið áðr en hann dó sat hann að borði með vinum sínum í húsi staðarskrifarans, þar sem hann gisti. Undir miðnætti þyngdi honum mjög og milli kl. 2 og 3 um nóttina sofnaði hann í drottni rólega eftir að hann hafði falið sál sína í hendr frelsaranum og skýrt játað hina kristnu trú sína.

Alexander Struys, listamaðr frægr frá Belgíu, hefir eigi fyrir löngu leitt fram málverk eitt mikið, þar sem andlát Lúters, hinnar frábæru hetju drottins, er meistaralega sýnt. Og hefir nú hér í Ameríku einkar snotr og vel gjörð eftirmynd af listaverki þessu verið gefin út og er til sölu í Milwaukee, Wisconsin, hjá Northwestern Publishing House, 347 Third St. (Jul. Luening, Mgr.). Eintakið kostar $1.50, en prestar og kennarar geta fengið myndina fyrir $1.00. Það er litmynd, prentuð á lín-pappír. Stœrðin er 25x20 þuml.

Á miðri myndinni er Lúter á banabeði sínum, og skín hinn guðlegi friðr trúarinnar út úr ásjónu hans í dauðanum. Til hœgri handar hinum deyjanda kirkjuföður sjást synir hans, Marteinn og Páll, sitjandi. Hinn síðarnefndi heldr höndum fyrir augu, yfirkominn af harmi. Á bak við þá til sömu hliðar sjást þrír menn, og horfa þeir allir á andlit hins deyjanda manns. Það eru þeir Jústus Jónas, einn hinna alþekktu göfugu starfsbrœðra Lúters, Cölíus prestr og annar Mansfeld-greifinn. En vinstra megin við banabeðinn sjást konur tvær, Mansfeld-greifafrúin og húsmóðirin, frú staðarskrifarans. Enn fremr sjást tveir læknar á myndinni.

Mynd þessi er einkar vel við eigandi stofuprýði á kristnum heimilum.

---

Kvittanir fyrir gjöfum í skólasjóð koma í næsta blaðt.

---

Íslenzk nýja-testamenti eru að fá til kaups (60 cts.) hjá ritst. ,,Sam.“

---



---

,,SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið ,,Kennarinn“ fylgir með ,,Sam.“ í hverjum mánuði. Ritstjóri ,,Kennarans“ er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada,—Útgáfunefnd: JÓN BJARNASON, (ritstj.), FRIÐRIK J. BERGMANN, ÓLAFR S. ÞORGEIRSSON, BJÖRN B. JÓNSSON, N. STEINGRÍMR ÞORLÁKSSON.

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.